# Syndin er eckert gamanspil,

útlagt úr engelsku af útgef.

---

O hvørsu undarlig verøld er þad sem vér lifum í! Hér er høfdíngi ljóssins, høldíngi myrkranna, gódir menn og vondir menn, heilagleiki og synd, hér er allt þetta hast ad gamni sér og talad um þad opt í kátínu. Viti þó allir, ad þad er ein vodalig dármenska, ad henda gaman ad alvarligum hlutum; og Salómon kénnir, «ad þeir séu dárar, sem henda gaman ad syndinni" (Ordsqv. 14, 9.) Hvørsu opt sjáum vér þó ecki, jafnvel børnin sjálf, gjøra synd, annadhvørt í ordum edur verkum, og sídan hlæa ad því þegar búid er; já, og verda — þó hørmuligt sé frá ad seigja — rétt sem upphvøtt til þess af vondum foreldrum? Eg vil nú ecki tala um, hvad opt vér heyra meigum drykjurutara raupa af sínu blygdunarleysi; saurlífiskroppa af tølu sinna sigurvinnínga og prángara af ávexti konstar sinnar og svikabragda. Svo þeir finnast margir, á øllum lífsins aldri, sem hrósa sér af skømmunum.

En einginn sigur þykir þó vondum mønnum sætari, enn nær þeir sjá, ad þeim mønnum, sem ord á sér hafa fyrir réttlæti og gudhrædslu, verdur eitthvad áfátt. Þá leika þeir sem á alls oddi. En slíkt ætti þá ad verka hjá sannchristnum því stærri alvørugéfni, ad láta sína gudhrædslu í ljósi, med sem heilagastri umgeingni, svo þeir svipt fái mótmælendurnar slíkum sigri, og nidurþaggad óvitsurleik heimskra og sásinnadra manna.

Vinsamiligi lesari edur heyrari! ert þú sá sem med hlátri edur brosi, edur á nockurn annan hátt, freistast til, ad samþyckja því sem þú þó, innvortis med sjálfum þér, finnur ecki rétt ad vera; þá bid eg þig inniliga, ad þú gaum viljir géfa ad eptirfylgjandi athugasemdum:

1) Hvørn sem ad syndinni hlær edur gaman hendir, hann hlær undir eins ad Guds reidi gégn syndinni. «Gud er (seigir David vs. 4) dagliga reidur vondum mønnum.» En hvad er þad þá, sem hans reidi uppæsir? hvad er þad, hvørju hans andi er svo reidur og gramur? og hvad er þad sem géfur hønum orsøk til ad reida upp sverd hefndar sinnar, yfir høfud ógudligra? Paull svarar því med þessum ordum: «Reidi Guds auglýsist af himnum ofan, yfir allt gudleysi og ránglæti mannanna» (Róm. 1, 18) Og ef reidi eins jardnesks kóngs, er sem øskur eins ljóns, hvørsu skélfilig hlýtur þá ecki ad veri reidi almáttugs Guds.

2) Hvor sem gaman hefur af syndinni, hefur ogsvo gaman af hörmúngum alls mannkynsins. Vér lifum í einum táradal; hvar fángelsi, sjúkdómshús, og ótal adrir samastadir hörmúnganna, innræta djúpt þann hátídliga sannleika, ad hér liggi margfæld eymd yfir mannkynninu (Pred. 8, 6.) og híngad má heimfæra þad skáldid seigir:

Lítid munads þeinkja þrjótar,
þegar luckan alla vegá,
sældin, audur, virdíng, veldi
veitist þeim og yndid teita;

Lítid þeinkja þeir, nær géta
á þúsund háttu lastafúsir
tíma lífsins sóad-samir
til synda' og glæpa, nærsta blindir;

Lítid þeinkja þeir, eg játa,
þeirra til, er mótgángs snerra
á sama þryckir tíd og tíma
og teimást inn í daudans geyminn.

3) Sá sem syndina fyrir gamanspil hefir, dregur gis ad daudanum, vegna þess, ad þegar syndin kom í heiminn, fylgdi daudinn á eptir syndinni, seigir ritníngin (Róm. 5, 12.) Svo daudinn hefur gjördt veröldina rétt sem ad einni Golgatha, hvar hausaskéljar hinna svendu í hrúgum liggja; og mun þá slíkt sjónarspil eiga

ad vekja heidíngliga kátínu? Ef allar beinagrindur af ollum daudum væru safnadar á einn vídan voll, og einn Jehú skyldi þá spyrja: «hvør hefur alla þessa í hel sleigid"? (2 kb. 10, 9) þá mætti honum svara: syndin hefur þá alla ad velli lagt. Híngad má heimfæra skáldsins ord:

Milli tímans midt og eilífdar
stendur daudinn, med gapanda gini,
á brú einni svo bísna mjórri,
ad einginn getur þar yfirkomist,
nema verdi ad bráð vargi þessum.

4) Nær einn madur hlær ad syndinni, þá hlær hann þegar hann ætti ad gráta. Hvør er sá sem af alvøru hendir gaman ad banvænum sjúkdómi á sjálfum sér? Syndin er einn sjúkdómur. Hún er eitrud; já hún er aldeilis banvæn, nema med því móti ad balsamid frá Gilead verdi í tíma vid henni brúkad til lækníngar. En framar ad seigja: syndin verkar sekt og smán. Þessvegna, nær einn madur hlær ad synd sinni, þá hlær hann ad svikrædi því, med hvørju hann táldreigid hefur sálu sína. Breytni hans í þessu efni, er eins snuglig, sem hún er vondskufull. Þannig hlær heimska eins dára, ad sinni eigin heimsku.

5) Ad hafa gaman af syndinni, er ad hafa gaman af helvítis vítslum. Því syndin er þad, sem þessa botnlausu gryfju opnad hefur. Syndin er módir þess orms, sem aldrei deyr. Syndin

hefur kindt blossa þann, er aldrei mun útslockna. Já syndin leidir til þess stadar, þá sem hana elska, hvar ýlfran, óp og tannagnístran varir eilífliga. O, þú athuga- og þánka-laust syndari! er það léttvægur hlutur að falla í reidi hendurlifanda Guds — að finna til þúnga hans formælíngar, og búa í eilífum eldsglóðum? Færdu' (minndað þér, að þú með syndafullu spaugi munir geta gamnað þér við þína lisilugu stallbrædur í helvíti, af hvörju að uppstígur reikur þeirra qvala til eilífdar? — Hugleidið þetta þér sem Gudi gleymið, að hann ei sundurslíti ydur, og þar sé eínginn, sem ydur frelsi! Hugsið um þetta, svo enn sá stóri dagur hans reidi kémur! Beinkid á hvörjum degi þér reikid, og snúid ydar fótstigum til hans vitnisburda! Í þessum vitnisburdum munud þér finna ydur auglóstan einn endurlausnara. Hans nafn er Jesús! Sjáid! nú er sá þægiligi tíminn; sjáid! nú er dagur hjálpræðisins! Trúdú á drottinn Jesúm, og muntú hólpinn verda!

6) Að hafa gaman af syndinni, er svo gott sem að hafa gaman af qvölum Jesú. Nú þegar menn álíta verdugleika persónu Christs, þá má þetta vekja med manni eina jafnhátignar- sem ógnar-fulla athugasemi, fram yfir allt annað. Svo stór sök sem það er, að draga gis að sínum líkum, hvörsu miklu stærri má hún þá vera, í því að spotta sjálfan Guds eiginn son. Aldrei hefur nockur persóna liðið, eins þúnga smán sem

Jesús leid. Þeir bundu fyrir hans blessudu augu og pústrudu hann, og hann mátti sæta því allra-sárasta spotti af þrælunum í biskupshøllinni, «því þeir hræktu í hans ásjónu" (Matth. 26, 27.) Heródes og hans strídsmenn høfdu Jesúm ad hádi. Uppá spott var hann klæddur einni purpurakápu. Einn reirleggur var látinn í hans hønd fyrir veldisspíru, til ad draga gis ad því ad hann létist kóngur vera. Og þegar hann var á krossinn hafinn, hæddu þeir — þó hrylliligt sé frá ad segja — ad þeim píslum, sem drógu hann til dauda. Þeir sem fram hjá geingu, skóku høfud sín og søgdu: «ef þú ert sonur Guds, þá stíg nidur af krossinum." Høfudprestar, skriftlærdir og øldúngar søgdu af beisku hádi: «ødrum hefur hann hjálpad, sjálfum sér getur hann ecki hjálpad"; og jafnvel ræníngjarnir, sem med hønum vóru krossfestir, køstudu hønum því sama í nasir. Og — getur þú nú, syndarinn vitstola! feingid af þér ad fylla þessara flock, taka undir med þeim og spotta Jesúm? Þeir vissu ecki eins vel, hvad þeir gjørdu, eins og þú nú átt vita þad. Viltu þá draga gis ad Jesú, og henda spott ad hans bænum, hans tárum, hans ángist og blódugum sveita í grasgardinum, ad hans grimmu húdstríkingu og ad píslum hans þyrnikórónu? O lát heldur yfirtala þig til, ad fylgja hans fótsporum ad hausaskeljafjallinu. Nem þar stadar og horf á, slá í þøgn og yfirvega þaug undur

sem þar ské: ad Gud sjálfur píniſt þar og deyr, fyrir þínar og allar veraldarinnar syndir. Ef þú hleigid gétur á þeim stad, og ad þeirri sjón, sem þar má sjá, hvad munu þá ecki einglarnir þeinkja? Hvor kann ad seigja frá stærri skélfíngu og furdu enn þar á geingur? Þarum sýngur sá gudligi Doddridge þessarar meiníngar:

Helgir, flockuſt allir andar
umkríng blódi storkid tré
med heitri laungun hér vid standa,
ad horfa' á undur sem þar ské;
ad drottinn líſsins, dauda kíſsins,
dóminn þoldi, qvøl og spie.

Hefdu þeirra eingil augu,
eitt tár jafnvel gétad feldt,
sannliga þá af sjónar baugum
sjáſt þad hefdi mátt úthellt;
þegar af lídum lasta strídum,
líf Guds var í daudan seldt.

O þér dárligu syndarar, sem híngad til hleigid hafid midt í syndarinnar þjónustu, og spottad svo gott sem sjálfan þann krossfesta Jesúm! Látid nú af ydar spiesſkap "svo ydar bønd verdi ecki hardari" (Es. 28, 22.) Géfi Gud ydur iðrun til lífsins, þá munud þér gráta fyrir Christs sakir, eins og einn grætur yfir einka syni, og þvílík harmaheiſkja mun þá inntaka ydur, sem sú, er uppfyllir þann er harmar yfir miſsir síns frumgétins sonar.

Þér, kæru lesendur og heyrendur! einkum þér sem úngir erud, og enn nú gángid á gjálífis-ins stigum, festid vel í minni eptirfylgjandi línur, sem á einn heppiligan hátt útlista eitt þad, sem ádur hefur umhyndlad verid, og, med Guds adstod, mun vist launa þad ómak, sem þér fyrir því hafid:

Hvør ad syndinni hlær,
hlær ad Guds reidi, sem mjøg er óbær;
hlær ad hans útdreignri hegningar sigd;
hlær ad síns frelsara vyslum og hrigd;
hvør fyrir syndirnar sig píua lét,
særdist og grét, særdist og grét.

Hvør ad syndinni hlær,
hlær ad því bøli, sem mannkynid slær;
hlær ad alskepnunnar hørmúnga stun;
hlær ad þeirri pínúngu', er þjá hana mun;
hlær ad øllum syndurum hótadri neyd,
ad helvíti og deyd, ad helvíti og deyd.

Hvør ad syndinni hlær,
hlær ad þeirri ólucku' er sjálfur hann fær;
hlær ad sinni ókomnu hørmúng' og pín;
hlær ad þeirri qvøl, sem aldregi dvín;
hlær ad Gudi sjálfum, og sál sína med
setur hann í ved, setur hann í ved.

Hvør ad syndinni hlær,
hlær ad sínum skømmum og glæpum, sem ær;
hlær ad því øllu' er svikur hans sál;
svoddan ein dármenska' er yfir allt mál!
Hvør gétur nefnt hana nafni því ber?
alls einginn sá er, alls einginn sá er!

Joh. Stennett.

---

Kaupmannahøfn 1820.
Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.